# ÆTTATALA

sjálfseignarbónda **Pèturs Jónssonar**

*og konu hans*

**Íngibjargar Einarsdóttur.**

---

Samantekin af

**Ólafi Snóksdalín.**



---

**Reykjavík 1848.**

Prentuð í prentsmiðju landsins, á kostnað P. Jónssonar,
af Helga Helgasyni.

# Formáli.

*Það er ekki tilgángur minn með prentun ættatölu þessarar, að ætla mèr að ábatast á verði hennar, þareð aðrir munu trauðlega girnast að eiga slíkan bækling enn þeir, sem í honum geta lesið hverrar ættar þeir eru, hitt er heldur: að eg vildi hagnýta mèr leyfi Stiptsyfirvaldanna, þar sem þau hafa kunngjört landsfólkinu, að hver mætti prenta láta það, sem honum væri hugleikið, og annarskostar væri leyfilegt að prenta; mèr er og geðþekkt að geta með blöðum þessum stuðt, enda þótt í litlu sè, að því, að minning höfundarins Ólafs heitins Snóksdalíns haldist á lopti, þess manns, er eg hygg verið hafa einn hinn ættfróðasta á landi hèr; og í þriðja lagi tel eg mèr það til ánægju að geta útbýtt ættatölu þessari meðal frænda minna, er mèr þykir eðlilegt að þá muni fýsa til*

*að kynnast nokkuð ætterni sínu um undanfarnar aldir. Tel eg mèr þetta nóga umbun kostnaðar og fyrirhafnar minnar. Að síðustu votta eg heiðarlegum skólalærisveini Hr. Magnúsi Grímssyni alúðar þakklæti fyrir það, er hann hefur góðmannlega á hendur tekizt og vel af hendi leyst undirbúníng þessa ritlíngs undir prentun.*

Norðtúngu í Mýrasýslu í Marzmán. 1847.

P. Jónsson.

---



# ÆTTATALA

## PÈTURS JÓNSSONAR.

### Fyrsti kynþáttur.

*Lángfeðgatal frá Noregi.*

1. Ögvaldur hèt konúngur á Rogalandi um 440. Hans son:
2. Josur konúngur á Rogalandi eptir föður sinn. Hans son:
3. Hjörr konúngur á Roga- og Hörðalandi, er dó 510. Hans son:
4. Hjörleifur enn kvennsami[1], er átti Æsu

1) Landn. segir á bls. 121, þar sem hún telur ætt Geirmundar og Hám. heljarsk., að: "Geirm. og Hámundur "heljarskinn hafi verið synir Hjörs Hálfssonar, Hjörleifs- "sonar konúngs hins kvennsama, Hjörssonar, Josursson- "ar, Afvaldssonar af Afvaldsnesi." Samanber Landn. útg. Kmh. 1843 bls. 343

Eysteinsdóttur konúngs af Valdresi. Þeirra son:

5. Óblauður[1], konúngur á Hörðalandi eptir föður sinn. Hans son:

6. Ótryggur hersir í Noregi. Hans son:

7. Högni hinn hvíti. Þessir 7 lángfeðgar önduðust allir í Noregi. Synir Högna voru þeir:

a) Eyríkur, og:

8. b) Úlfur enn skjálgi landnámsm. á Reykjahólum á Reykjanesi[2], átti Björgu Eyvindardóttur austmanns. Þeirra son var:

9. Atli enn rauði á Reykjahólum, er átti Þorbjörgu[3] Rólfsdóttur hersis á Þelamörk. Þeirra son:

10. Már á Reykjahólum, er átti Þorkötlu Hergilsdóttur, Þrándarsonar. Þeirra son:

11. Ari á Reykjahólum. Hann lifði á tíundu öld, og átti Þorgerði Álfsdóttur, Eysteinssonar. Þeirra son:

12. Þorgils á Reykjahólum, er 1015 átti

---

1) „Hjörleifur Hörðakonúngur átti Æsu ena ljósu; "þeirra son var Ótryggur, faðir Óblauðs, föður Högna "ens hvíta, föður Úlfs ens skjálga." Landn. bls. 120. En hèr er Óblauður látinn vera faðir Ótryggs. 2) Samanber Landn. bls. 129. "Hann átti Björgu dóttir Eyvindar austmanns, systur Helga ens magra." 3) "Systur Steinólfs lága." Landn. bls. 129.

Grímu Hallkelsdóttur, Hrossketilssonar, Þorsteinssonar. Þeirra son:

13. Ari á Reykjahólum faðir
14. Einars á Reykjahólum. Þeirra er getið í Sturlúngu[1]. Dóttir Einars var:
15. Hallbera, er átti Þorgeir Hallsson frá Hvassafelli í Eyafirði. Þeirra dóttir:
16. Íngibjörg miðkona Sturlu í Hvammi, Þórðarsonar á Staðarfelli, Gilssonar. Þeirra dóttir:
17. Steinunn, er átti Jón Brandsson á Reykhólum. Þeirra son:
18. Íngimundur lifði snemma á þrettándu öld. Þeirra son:
19. Ari, er lifði seint á 13. öld. Hans son:
20. Guðmundur á Reykjahólum snemma á fjórtándu öld. Hans börn:
    *a)* Ari, faðir Guðmundar, Nr. 48;
    *b)* Þorbjörg, Nr. 71; og
21. *c)* Rafn lögmaður norðan og vestan 1409, dó 1432, á (Skrítu) í Reykjadal, átti Ragnhildi Bjarnadóttur. Þeirra börn:
    a) Ragna, og
22. b) Guðrún, er átti Ólafur, launson Lopts ríka Guttormssonar, Nr. 179. Þeirra son:

---

1) Sjá meðal annars Sturl. 1. bd. bls. 107.

23. Jón, er átti Íngibjörgu Einarsdóttur, Sumarliðasonar. Þeirra son:
24. Torfi ríki í Klofa á Landi. Hann átti Helgu Guðnadóttur í Ögri, Jónssonar, Nr. 74. Þeirra son:
25. Bjarni átti Íngibjörgu Sigurðardóttur, Finnbogasonar lögmanns, Nr. 68. Þeirra dóttir var:
26. Íngibjörg, er átti Hrólfur sterki Bjarnason, Nr. 59. Þeirra son var:
27. Bersi bóndi á Urðum 1609. Kona hans hèt Haldóra. Þeirra son:
28. Rafn mesti hagleiks maður, og lögrèttumaður í Húnaþíngi, dó 1655. Hann átti Þóru dóttur Stefáns Guðmundarsonar, prests á Undirfelli 37 ár, dó 1611. Þeirra son var:
29. Eyvindur á Brekkulæk; hann átti Valgerði Guðmundardóttur, Jónssonar rauðbrota á Söndum, Nr. 43. Þeirra dóttir:
30. Guðrún, er átti Ólafur Magnússon frá Skógum á Fellsströnd, uppalníngur Erlendar prests á Melstað. Þeirra dóttir:
31. Íngibjörg, er átti Sveinn, sonur Sveins Jónssonar á Óspaksstöðum í Hrútafirði, Nr. 54. Þeirra son:
32. Sveinn á Skarði í Neshrepp, er átti Þuríði Pálsdóttur í Háarifi, Nr. 351. Þeirra son:

33. Jón á Söndum í Miðfirði. Hann átti Dagbjörtu Pètursdóttur, Guðmundarsonar, Nr. 41. Þeirra son:

34. Pètur[1] á Sigmundarstöðum í Þverárhlíð, hann átti Íngibjörgu Einarsdóttur, Nr. 113. Þeirra börn:

---

1) Auk Pèturs átti Jón á Söndum enn þessi börn:

a) Guðrúnu, er átti Jón Þórðarson á Mýrum. Þeirra börn:
   1) Dagbjört, kona Stefáns á Tjarnarkoti Einarssonar í Gröf á Vatnsnesi. Þeirra börn: Einar, Guðrún, Jósef, Ósk, Jón, Anna og Jóhannes.
   2) Þorlákur faðir Guðna.
   3) Guðrún móðir Stefáns.
   4) Sigríður kona Sigurðar bónda Jónssonar á Hvalsá í Hrútafirði. Þeirra börn: Pètur og Sigurður.
   5) Kristín móðir Guðrúnar, Kristófers, Sigríðar og Margrètar.

b) Sigríði, er átti Egill Þórðarson. Þeirra dóttir Ragnheiður, kona Helga Hákonarsonar í Grafarkoti. Þeirra son Hjörtur. Launsonur Ragnheiðar með Brynjólfi Brynjólfssyni var Jón.

c) Stefán á Ánastöðum á Vatnsnesi; hann átti Önnu Einarsdóttur. Þeirra börn: Anna, móðir Stefáns, Una, Ósk, Jósef, Jónatan, Guðrún, Jón, Þorsteinn og Íngibjörg móðir Önnu.

d) Guðbjörgu. Fyrri maður hennar var Bjarni Danjelsson frá Þoroddsstöðum í Hrútafirði. Þeirra börn: Davíð og Karólína. Seinni maður Guðbjargar var

35. Hjálmur, Íngibjörg, Ljótunn, Þorsteinn og Kristín. Laundóttir Pèturs var Ástríður, er átti Guðlaugur Jónsson á Brekkulæk. Þeirra son Pètur.

## Annar kynþáttur.

*Móðurætt Pèturs Jónssonar, Nr. 34.*

36. Jón hèt bóndi á Söndum í Miðfirði um og eptir 1600, hann var kallaður rauðbroti. Hans börn:

37. *a*) Ari, er átti Rósu. Þeirra son:

38. Pètur á Rófu í Miðfirði; hann átti Þorbjörgu Pètursdóttur að sunnan. Þeirra dóttir:

39. Bergljót, er átti Guðmundur Þorsteinsson, Guðmundarsonar. Þeirra son var:

40. Pètur á Húki í Miðfirði, er átti seinna Guðrúnu Bjarnadóttur frá Gerru í Strandasýslu. Þeirra dóttir:

41. Dagbjört, er átti Jón Sveinsson á Söndum, Nr. 33.

---

Helgi Jónsson frá Böðvarshólum á Vatnsnesi. Þeirra börn: Bjarni, Tómás, Skapti, Kristín og Stefán.

e) Jón, bónda á Sveigistöðum í Miðfirði. Hann átti Ingibjörgu Danjelsdóttur frá Þóroddstöðum í Hrútafirði. Þeirra börn; 1) Danjel; 2) Þorsteinn, er átti Guðbjörgu Jónsdóttur á Broddanesi; 3) Hólmfríður; og 4) Íngibjörg, er átti Ólafur Björnsson.

42. *b)* Guðmundur Jónsson, Nr. 36. Hans dóttir:
43. Valgerður, er átti Eyvindur Rafnsson, Nr. 29.

## Þriðji kynþáttur.

*Föðurætt Sveins Sveinssonar á Skarði, Nr. 31.*

44. Þorleifur Svartsson hèt ríkur nefndarmaður, fæddur 1307, dáinn 1379. Hann átti Reykjahóla og margar eignir aðrar. Hans son:
45. Ólafur á Hvoli í Saurbæ, kallaður tóni, dó 1393. Hans dóttir:
46. Guðrún, er átti Geirmundur Herjólfsson á Hvoli. Þeirra son:
47. Ólafur ýngri tóni á ytri Rauðamel. Hann fèkk 1446 Sigríðar Þorsteinsdóttur frá Hróðnýarstöðum í Laxárdal. Þeirra dóttir var:
48. Þorbjörg, er átti 1462 Andrès á Felli í Kollafirði, launson Guðmundar ríka Arasonar frá Reykjahólum, Guðmundarsonar, Nr. 20. Þeirra son:
49. Guðmundur Andrès á Hafurshesti í Önundarfirði, átti Þrúði Þorleifsdóttur riddara Björnssonar, Nr. 257. Þeirra son:
50. Ólafur prestur í Hjarðarholti í Dölum 1530. Hafði undir eins Strandasýslu, og átti Íngiríði Guðmundsdóttur, Finns-

sonar frá Ökrum, Pèturssonar, Nr. 114. Þeirra son:

51. Jón í Galtardal á Fellsströnd, hann átti Guðrúnu laundóttur Árna Gíslasonar á Hlíðarenda, Nr. 270. Þeirra dóttir:

52. Íngveldur, er átti Össur Kolbeinsson á Bjarnarhöfn. Þeirra dóttir:

53. Guðbjörg, er átti Sveinn Jónsson á Óspaksstöðum í Hrútafirði, Ólafssonar. Þeirra son:

54. Sveinn, er átti Íngibjörgu Ólafsdóttur, Magnússonar, Nr. 31. Þeirra börn voru þau:
   a) Sveinn á Skarði, Nr. 32., og
   b) Guðrún móðir Tómásar á Ásgeirsá.

## Fjórði kynþáttur.

*Föðurætt Bersa á Urðum, Nr. 27.*

55. Nikulás Þormóðsson hèt príór á Möðruvöllum; frá honum er Eydalaætt komin. Hans son:

56. Þorsteinn fæddur um 1480, prestur að Völlum í Svarfaðardal; hann hèlt við Guðrúnu nokkra. Þeirra son:

57. Hrólfur, er átti Geirþrúði dóttur Sigvalda lángalífs. Þeirra son:

58. Bjarni, er bjó norður í Skagafirði. Þeirra son:

59. Hrólfur sterki, er átti Íngibjörgu Bjarnadóttur, Torfasonar, Nr. 26.

## Fimti kynþáttur.

*Móðurætt Íngibjargar Bjarnadóttur, Nr. 26.*

60. Magnús Brandsson hèt mikilsháttar maður á Svalbarða norður, Nr. 210. Hans son:

61. Eyríkur, er átti Ingiríði Loptsdóttur, Þórðarsonar. Nr. 211. Þeirra börn:
a) Sofia, Nr. 177. og

62. b) Málfríður, er átti Björn ríki Brynjólfsson, Bjarnasonar. Þeirra son:

63. Ólafur á Ökrum norður, átti Kristínu dóttur Þorsteins lögmanns og lènsherra Eyólfssonar frá Urðum, Nr. 214. Þeirra son var:

64. Þorsteinn á Ökrum, fyrst hirðstjóri 1427, svo lögmaður 1431 Hans dóttir var:

65. Kristín kona Torfa riddara og hirðstjóra 1448, Arasonar. Þeirra dóttir:

66. Málfríður kona Finnboga lögmanns Jónssonar, Pálssonar, Nr. 237. Þeirra son:

67. Sigurður á Eyðum átti Margrètu Þorvarðsdóttur, Erlendssonar og Kristínar Gottskálksdóttur biskups, Nikulássonar, Nr. 249. Þeirra dóttir:

68. Íngibjörg, er átti Bjarni Torfason frá Klofa, Nr. 25.

## Sjötti kynþáttur.

*Móðurætt Bjarna Torfasonar, Nr. 25.*

69. Þórður Sigurðsson hèt ríkur maður á Vestfjörðum. Hans son:

70. Oddur lögmaður norðan og vestan 1407, fyrrum hirðstjóri. Hans son:

71. Guðni á Hóli í Bolúngarvík, dó um 1433, átti Þorbjörgu Guðmundsdóttur, systur Rafns lögmanns, Nr. 20. Þeirra börn:
 a) Snjálaug, Nr. 216, og

72 b) Kristín, er átti Jón sýslumaður Ásgeirsson, Nr. 101. Þeirra son:

73. Guðni sýslumaður í Ögri, dó 1487, átti Þóru laund óttur Bjarnar riddara á Skardi, Þorleifssonar, Nr. 322. Þeirra börn:
 a) Björn, kvæntur Nr. 251, og

74. b) Helga, er átti Torfi Jónsson í Klofa, Nr. 24.

## Sjöundi kynþáttur.

*Föðurætt Guðna Jónssonar, Nr. 73.*

75. Hálfdan snjalli Haraldsson konúngur í Skáney, dó 650. Hans son:

76. Ívar víðfaðmi konúngur í Svía- og Danaveldi, dó 670, 50 ára, hann átti Gothildi Álfsdóttur, Ólafssonar skigna. Þeirra dóttir:

77. Auður djúpauðga, er síðar átti Raðberð konúngur í Hólmgarði. Þeirra son:
78. Randver Danakonúngur, dó 700, átti Ásu Haraldsdóttur konúngs í Noregi. Þeirra son var:
79. Sigurður hríngur dó 750, átti Álfhildi Gandólfsdóttur konúngs Álfgeirssonar. Þeirra son:
80. Ragnar loðbrók[1]; hann átti Áslaugu[2] Sigurðardóttur Fofnisbana, Volsúngssonar. Ragnar dó 794, 79 ára. Þeirra son:
81. Sigurður ormur í auga[3], átti Blæu Elladóttur konúngs. Þeirra dóttir var:
82. Þóra, er átti Helgi konúngur, Ólafsson, Guðrauðarsonar. Þeirra son:
83. Íngjaldur konúngur. Hans son:
84. Óleifur hvíti[4] herkonúngur á Skotlandi, fèll í orrustu á Írlandi, átti Auði Djúpauðgu Ketilsdóttur flatnefs, Bjarnarsonar, Grímssonar hersis. Þeirra dóttir:
85. Þóra er Þorsteinn átti[5] þorskabítur, Þórólfsson Mostraskeggs, Örnúlfssonar. Þeirra son:
86. Þorgrímur á Sæbóli á Íngjaldssandi, dó 963, átti Þórdýsi Þorbjarnardóttur súrs, Þorkelssonar. Þeirra son:

1) Samanber Landn. bls. 172. 2) Sjá Landn. bls. 325. 3) Sjá Landn. bls. 325—6. 4) Sjá Landn. bls. 108—113. 5) Sjá Landn. bls. 98, 99, 346.

87. Snorri goði á Helgafelli, dó 1031, átti Ásdýsi Styrsdóttur, Þorgrímssonar. Þeirra son:
88. Haldór[1] stallari Haralds konúngs Sigurðarsonar; hann átti Þórdýsi Þorvaldsdóttur, Ísleifssonar, Ísrauðarsonar. Þeirra dóttir:
89. Guðrún, er átti Kjartan í Vatnsfirði, Ásgeirsson, Knattarsonar, Þjóðrekssonar. Þeirra son:
90. Þorvaldur í Vatnsfirði; hann átti Þórdýsi Hámundardóttur. Þeirra dóttir:
91. Íngiríður, er átti Guðlaugur. Þeirra dóttir:
92. Vigdýs, er átti Úliði Oddsson, Þorvarðssonar á Söndum. Þeirra son var:
93. Áli auðgi. Hans son var:
94. Oddur. Hans dóttir:
95. Herdýs, er átti Svarthöfði Dugfússon, Þórarinssonar. Þeirra son:
96. Björn. Hans son:
97. Gissur galli í Víðidalstúngu. Þeirra son:
98. Hákon fæddur 1324, dó 1381. Hans dóttir:
99. Guðný, er átti Árni á Auðbrekku, Einarsson á Breiðabólstað í Vesturhópi 1340, Hafliðasonar, Steinssonar. Þeirra son:

---

1) Samanber Landn. bls. 346.

100. a) Ásgeir í Ögri við Ísafjörð, átti Guðfinnu Þorgeirsdóttur, Ólafssonar, Loptssonar, Nr. 181. Þeirra son:
101. Jón í Ögri, átti Kristínu Guðnadóttur, Oddssonar, Nr. 72. og 280.
102. b) Þorleifur ríki í Vatnsfirði, dó 1433, átti Kristínu Björnsdóttur, Nr. 319.

---

# ÆTTATALA

## ÍNGIBJARGAR EINARSDÓTTUR.

---

### Fyrsti kynþáttur.

*Móðurætt Íngibjargar í karllegg.*

103. Þorkell hèt ríkur maður í Borgarfirði, kallaður Vellíngur. Hans son:
104. Björgólfur á Fitjum í Skoradal, lögrèttumaður. Hans son:
105. Hákon á Fitjum, sýslumaður í Borgarfirði 1507, átti Guðrúnu Snorradóttur. Þeirra son:
106. Ásgeir prestur á Lundi[1] í syðra Reykjadal um 20 ár, dó 1530. Hann átti Íngi-

---

1) Sjá Ísl. Lærd. Lista Fèl. Rita 11. bindi bls. 67.

björgu Guðmundsdóttur, Nr. 165. Þeirra son:

107. Sigurður átti Sesselju Einarsdóttur frá Stóra-ási, Eyríkssonar prests í Reykjaholti, Jónssonar.[1] Þeirra son:

108. Ari á Fitjum átti Katrínu Jónsdóttur hæverska, Þórðarsonar, Haldórssonar. Þeirra son:

109. Sigurður dó 1707, átti Þorbjörgu Ásmundsdóttur, Ólafssonar á Bjarnastöðum í Hvítársíðu. Þeirra son var:

110. Ari á Fitjum átti Íngveldi Nikulásardóttur, Nr. 146. Þeirra son:

111. Þórólfur á Fitjum og Síðumúla, átti seinna Guðríði Einarsdóttur, Nr. 123. Þeirra son:

112. Einar, sem bjó í Kalmannstúngu og víðar, átti fyrri Kristínu Jónsdóttur, Magnússonar, Nr. 149. Þeirra dóttir:

113. Íngibjörg er átti Pètur Jónsson á Sigmundarstöðum, Nr. 34.

## Annar kynþáttur.

*Móðurætt Einars Þórólfssonar, Nr. 112.*

114. Finnur Pètur hèt ríkur maður á Ökrum í Hraunhrepp. Hans synir voru þeir:

a) Guðmundur faðir Íngiríðar konu Ólafs prests, Nr. 50. og

1) Sjá Ísl. Lærd. Lista Fèl. Rita 11. bindi. bls. 68.

115. b) Arnór á Ökrum, bjó þar 1507. Hans son var:

116. Finnur prestur á Ökrum 1534, átti Jófríði. Þeirra son:

117. Steindór á Ökrum, sýslumaður í Strandasýslu, átti Sesselju Eyríksdóttur prests frá Reykjaholti, Jónssonar. Þeirra son:

118. Eyríkur á Lángárfossi, dó 1595, átti Helgu Guðmundsdóttur frá Hvoli, Jónssonar, Þórðarsonar. Þeirra son:

119. Vigfús í Stóra-ási, átti Guðlaugu Björgólfsdóttur í Ási, Ásgeirssonar, Nr. 132. Þeirra son:

120. Jón í Ási, seinni maður Íngiríðar Jónsdóttur ekkju frá Kalmannstúngu. Þeirra dóttir:

121. Steinunn, er átti Bjarni á Ásbjarnarstöðum, Sveinsson, Steindórssonar. Þeirra son:

122. Einar á Hvanneyri, Norðtúngu og Síðumúla, átti Solveigu Árnadóttur, Nr. 141. Þeirra dóttir:

123. Guðríður, seinni kona Þórólfs Arasonar, Nr. 111.

## Þriðji kynþáttur.

*Móðurætt Jóns Vigfússonar, Nr. 120.*

124. Þórður hèt göfugur maður fyrir norðan, átti Þórdýsi Finnbogadóttur gamla í

Ási í Kelduhverfi, Jónssonar, Nr. 230. Þeirra son:

125. Sveinbjörn prestur á Múlastað 1442, officialis Hólakirkju frá 1432, um 27 ár, dó 1490, 84 ára. Hans son var meðal annara:

126. Sigurður. Hans börn voru:
a) Helga kona Jóns biskups Arasonar, Nr. 171, og

127. b) Auðun, kallaður „laga-Auðun", fyrir norðan. Hans son var:

128. Kolbeinn prestur í Húsavík 1537, átti Ásdýsi Sölvadóttur. Þeirra son:

129. Ólafur prestur í Saurbæ við Hvalfjörð 1542,[1] yfir 20 ár, átti Karítas Sigurðardóttur. Þeirra son:

130. Hallur í Hjörtsey fyrir Mýrum sýslumaður, átti seinna Guðrúnu dóttur Þorsteins í Hjörtsey, Torfasonar í Klofa, Nr. 24. Þeirra dóttir:

131. Sesselja, er átti Björgólfur í Ási Ásgeirsson frá Lundi, Nr. 166. Þeirra dóttir:

132. Guðlaug, átti Vigfús í Ási Eyríksson, Nr. 119.

---

1) Sjá Ísl. Lærd. Lista Fèl. Rita 11. bindi bls. 65.

# Fjórði kynþáttur.

*Móðurætt Guðríðar Einarsdóttur, Nr. 123.*

133. Haldór Ormsson hèt ábóti á Helgafelli 1480. Hans dóttir:

134. Katrín átti Einar á Hofsstöðum, hirðstjóra 1493, launson Þorleifs riddara á Skarði, Björnssonar, Nr. 261. Þeirra son:

135. Ormur í Saurbæ á Kjalarnesi, átti Ragnheiði Þorvarðsdóttur lögmanns, Erlendssonar, Nr. 290. Þeirra son:

136. Haldór í Saurbæ, átti Þórdýsi Eyólfsdóttur mókolls, Nr. 260. Þeirra son var:

137. Eyólfur sýslumaður í Rángárþíngi 1592, átti Solveigu Árnadóttur, Gíslasonar á Hlíðarenda, Nr. 271. Þeirra son:

138. Ísleifur í Saurbæ á Kjalarnesi, átti 1605 Sesselju Magnúsardóttur sýslumanns frá Bæ á Rauðasandi, Jónssonar, Nr. 220. Þeirra dóttir:

139. Elísabet, er átti Haldór í Arnarholti Helgason, Vigfússonar á Hvanneyri, Þeirra son var:

140. Árni í Arnarholti í Stafholtstúngum. Hans dóttir:

141. Solveig, er átti Einar Bjarnason í Síðumúla, Nr. 122.

## Fimti kynþáttur.

*Móðurætt Íngibjargar Einarsdóttur, Þórólfssonar, Nr. 113.*

142. Eyólfur Jónsson hèt ríkur maður á Hjalla í Ölvusi, átti Ásdýsi Pálsdóttur, Guðmundssonar, systur Ögmundar biskups í Skálholti. Þeirra son:

143. Þórólfur á Hjalla, átti Margrètu Erlendsdóttur lögmanns, Þorvarðssonar lögmanns, Nr. 289. Þeirra son var:

144. Þorvarður á Suðurreykjum, átti Vilborgu Gísladóttur biskups í Skálholti Jónssonar, Nr. 154. Þeirra son:

145. Magnús á Suðurreykjum, átti Þóru Sigurðardóttur frá Einarsnesi, Nr. 168. Þeirra dóttir:

146. Kristín, er Nikulás átti Einarsson á Þíngnesi. Þeirra börn:

a) Íngveldur, er átti Ari Sigurðarson, Nr. 110, og

147. b) Magnús átti Valgerði Jónsdóttur í Þíngnesi. Þeirra son:

148. Jón í Kalmannstúngu, átti Íngibjörgu Bjarnadóttur, Þóroddssonar, Nr. 164. Þeirra dóttir:

149. Kristín, er síðar átti Einar Þórólfsson, Nr. 112.

## Sjötti kynþáttur.

*Móðurætt Magnúsar Þorvarðssonar, Nr. 145,*
*og*
*Kristínar Jónsdóttur, Nr. 149.*

150. Arnbjörn Salemsson (Salamonsson), er prestur nefndur í Gaulverjabæ um og fyrir 1400. Hans son:

151. Gísli prestur[1] í Gaulverjabæ, var áður heimilis prestur Ólafar á Skarði. Hans börn:

152. a) Jón[2] fyrst prestur að Hraungerði, svo 1529[3] í Gaulverjabæ, átti Vilborgu Þórðardóttur. Þeirra son var:

153. Herra Gísli[4] fæddur 1513, vígðist 1538, fyrst prestur, að Selárdal við Arnarfjörð, svo 1557 biskup að Skálaholti, dó 1587, átti Kristínu Eyólfsdóttur mókolls í Haga, Nr. 259. Þeirra dóttir:

154. Vilborg, er átti Þorvarður á Suðurreykjum, Þórólfsson, Nr. 144.

155. b) Guðmundur Gíslason, Nr. 151, í Deildartúngu, sýslumaður í Þverárþíngi sunnan Hvítár. Hans börn teljast hèr:

156. 1) Brandur á Leirá. Hans son:

157. Ólafur á Leirá átti Helgu Böðvarsdóttur prests að Saurbæ[5] á Hvalfjarðarströnd Eyólfssonar. Þeirra dóttir:

---

1) Sjá Ísl. Lærd. L. Fèl. Rita II. bindi bls. 45. 2) Sjá sömu bókar bls. 46. 3) og bls. 45. 4) og bls. 92 og 55. 5) Sjá sömu bókar II. b. bls. 65.

158. Sesselja, er átti Helgi sonur Eyólfs [1] prests Grímssonar á Melum 1550. Þeirra son:

159. Eyólfur átti Ljótunni Ásmundardóttur prests frá Miklaholti, Nikulássonar [2]. Þeirra son:

160. Ásmundur prestur á Breiðabólsstað á Skógarströnd í 52 ár, dó 1702 [3], 86 ára, átti Guðrúnu Jónsdóttur, Teitssonar, Nr. 175. Þeirra son:

161. Eyólfur í (Grunnasundsnesi), átti 1682 Ragnheiði Jónsdóttur frá Brokey, Pèturssonar. Þeirra son:

162. Helgi í Leirárgõrðum átti Sigríði Eyólfsdóttur. Þeirra dóttir:

163. Ljótunn, er átti Bjarni hinn eldri í Kalmannstúngu, Þorvaldssonar á Fitjum. Þeirra dóttir:

164. Íngibjörg, er Jón átti Magnúsarson í Kalmannstúngu, Nr. 148.

165. II) Íngibjörg Guðmundsdóttir, Nr. 155, er átti Ásgeir prestur að Lundi Hákonarson [4], Nr. 106. Þeirra bõrn:

166. a) Björgólfur í Stóra-ási, lifði yfir 1625, átti Sesselju Hallsdóttur, Ólafssonar, Nr. 131, og

1) Sjá Ísl. Lærd. L. Fèl. Rita 11. b. bls. 66. 2) og bls. 77. 3) og bls. 82. 4) og bls. 67.

167. b) Ragnheiður, er Sigurður átti í Einarsnesi, Jónsson, Magnúsarsonar samastaðar. Þeirra dóttir:

168. Þóra, er Magnús átti Þorvarðarson á Suðurreykjum, Nr. 145.

## Sjöundi kynþáttur.

*Móðurætt Eyólfs Ásmundarsonar, Nr. 161.*

169. Sigurður Jónsson hèt príor á Möðruvöllum 1440, kominn af þjóðversku kyni. Hans son:

170. Ari á Grítu, lítilfjörlegu koti, átti Elínu Magnúsdóttur; voru fátæk. Þeirra son:

171. Herra Jón fæddur 1484, vígður prestur 1503 til Helgastaðar, svo á Hrafnagili um 20 ár, varð biskup á Hólum 1524, dó í Skálaholti 1550, 7. dag Nóvembermánaðar, hèlt við Helgu Sigurðardóttur, Nr. 126. Þeirra son:

172. Björn prestur að Melstað, dó sem faðir hans, hèlt við Steinunni, Jónsdóttur frá Svalbarði, Nr. 221. Þeirra son:

173. Teitur á Holtastöðum, átti Þuríði Erlendsdóttur prests Pálssonar, Nr. 195. Þeirra son:

174. Jón átti Agnesi Pètursdóttur, Magnúsarsonar, Nr. 188. Þeirra dóttir:

175. Guðrún, er átti Ásmundur prestur Eyólfsson á Breiðabólstað, Nr. 160.

## Áttundi kynþáttur.

*Móðurætt Guðrúnar Jónsdóttur, Nr. 175.*

176. Örnólfur Jónsson undir Felli á Meðalfellsströnd 1377, átti Herdýsi. Þeirra son:

177. Guttormur í Stóraskógji, átti Sofiu Eyríksdóttur, Magnúsarsonar, Nr. 61. Þeirra son:

178. Loptur ríki á Mödruvöllum, átti Íngibjörgu Pálsdóttur, Þorvarðssonar, deyðu bæði 1436, Nr. 244. Launbörn Lopts ríka með Kristínu Oddsdóttur voru:

179. a) Ólafur, átti Kristínu Rafnsdóttur lögmanns, Nr. 22. Þeirra son:

180. Þorgeir í Ögri vestur, átti Ólöfu dóttur Þórarins prests að Ósi í Bolúngarvík. Þeirra dóttir:

181. Guðfinna er átti Ásgeir Árnason í Ögri, Nr. 100.

182. b) Ormur Loptsson átti 1434 Solveigu Þorleifsdóttur Árnasonar í Vatnsfirði, Nr. 320. Þeirra son:

183. Loptur á Staðarhóli, dó 1476, átti Steinunni Gunnarsdóttur að norðan. Þeirra son var:

184. Pètur á Staðarhóli átti Sigríði Þorsteinsdóttur, Helgasonar lögmanns, Eyólfssonar. Þeirra börn:

a) Ragnheiður „á rauðum sokkum“ gipt, Nr. 218, og

185. b) Árni á Stóradal, átti Guðrúnu Bessadóttur sýslumanns í Húnaþíngi, Einarssonar. Þeirra son:

186. Magnús i Stóradal í Eyafirði, átti Þuríði laundóttur Sigurðar prests að Grenjaðarstað, Jónssonar biskups Arasonar, Nr. 171. Þeirra son var:

187. Pètur í Vík á Svalbarðsströnd, átti Elínu Björnsdóttur officialis frá Saurbæ, Gíslasonar, Nr. 241. Þeirra dóttir var:

188. Agnes, átti Jón Teitsson, Nr. 174.

## Níundi kynþáttur.

*Móðurætt Jóns Teitssonar, Nr. 174.*

189. Bergþór Einarsson ríkismaður í Bólstaðahlíð. Hans son:

190. Steindór bóndi samastaðar. Hans son:

191. Sigmundur prestur að Miklabæ og Silfrúnarstöðum 1455, um 20 ár, seinni maður Solveigar Þorleifsdóttur, ekkju Orms, Nr. 320. Þeirra son:

192. Jón lögmaður norðan og vestan 1510, dó 1520, átti 1483 Björgu Þorvaldsdóttur frá Móbergi í Lángadal, Jónssonar. Þeirra dóttir:

193. Helga, hennar fyrri maður var Krákur

Hallvarðarson á Auðunnarstöðum. Þeirra dóttir:

194. Björg, er átti Erlendur prestur Pálsson á Breiðabólstað í Vesturhópi 1569, Nr. 236. Þeirra dóttir:

195. Þuríður, er Teitur átti Björnsson á Holtastöðum, Nr. 173.

## Tíundi kynþáttur.

*Móðurætt Teits Björnssonar, Nr. 173, fleirum viðkomandi.*

196. Kjarvaldur er konúngur nefndur á Englandi. Hans dætur voru:

*a)* Raforta[1], Nr. 325, og

197. *b)* Friðgerður, er Þórir[2] átti „híma", eður „hirna". Þeirra son:

198. Skíði. Hans dóttir var:

199. Þorgerður, er Þórður átti landnámsmaður í Höfða, Bjarnarson byrðusmjörs, kominn frá Ragnari Loðbrók. Þeirra dóttir:

---

1) Samanber Landn. bls. 205. Þar segir svo: „Ey-„vindur fór þá í vesturvíking, og hafði útgjörðir fyrir „Írlandi; hann fèkk Raförtu dóttur Kjarvals Írakonúngs." Eyvindur austmaður faðir Helga magra. 2) Landn. bls. 198. „Þórður (Bjarnarson byrðusmjörs) átti Þorgerði, „dóttur Þóris hímu og Friðgerðar, dóttur Kjarvals Íra-„konúngs."

200. Herdýs, er átti Atli hinn rammi Eyólfsson, Arnar-Atlasonar. Þeirra dóttir var:
201. Þorlaug, er átti Guðmundur hinn ríki á Möðruvöllum Eyólfsson, Einarssonar, Auðunarsonar rotins. Þeirra son:
202. Eyólfur hinn halti á Möðruvöllum átti Ingveldi Hallsdóttur á Síðu, Þorsteinssonar. Þeirra son:
203. Guðmundur Egli. Hans dóttir:
204. Þuríður, er átti Ketill hinn fljóti eður Fljóta-Ketill. Þeirra son:
205. Þorvaldur auðgi, átti Þuríði dóttur Guðmundar lögmanns 1122, Þorgeirssonar[1]. Þeirra son:
206. Guðmundur á Bakka í Yxnadal, átti Arndýsi Pálsdóttur prests í Reykjaholti, Sölvasonar[2] Þeirra son:
207. Einar. Hans son:
208. Eyríkur. Hans son var:
209. Brandur Hans son var:
210. Magnús, ríkur höfðíngi norður á Svalbarða. Hans börn tel eg þrjú.

---

1) Sjá Landn. bls. 338. Þar segir svo: „1122 Guð„mundur Þorgeirsson lögmaður 17 ár.“ 2) Landn. bls, 126 í nótu: „Þeirra (nefnil. Hrólfs Kjallakssonar og „Þuríðar Valþjófsdóttur) son var Illugi enn rauði og „Sölvi, faðir Þórðar, föður Magnús, föður Sölva, föður „Páls prests í Reykjaholti.“ Og bls. 384, þar sem talin eru nöfn íslenzkra presta kynborinna.

211. 1) Eyríkur ríki dó 1382, átti Íngiríði Loptsdóttur, Þórðarsonar og Málfríðar Árnadóttur, frá Aski í Noregi, Nr. 61.

212. 2) Arnþrúður, er átti Þorsteinn á Víðimýri lögmaður og lènsherra 1358 til 1400. dó 1402, Eyólfsson frá Urðum í Svarfaðardal norður. Þeirra börn:

213. a) Solveig, er átti Björn Jórsalafari Einarsson, Nr. 318.

214. b) Kristín kona Ólafs Björnssonar, Nr. 63. og

215 c) Arnfinnur riddari, sem kallar sig, undir eiði Íslendínga 1419, hirðmann Noregskonúnga. Hans er getið í brèfum 1388 og 1410. Hans son:

216. Eyólfur riddari átti Snjálaugu Guðnadóttur, Oddssonar, Nr. 71. Þeirra dóttir:

217. Kristín, er átti Magnús í Skriðu Þorkelsson, Nr. 224. Þeirra son:

218. Jón á Svalbarða, átti Ragnheiði Pètursdóttur, Nr. 184. Þeirra börn sem frá er talið:

219. a) Magnús í Bæ á Rauðasandi, sýslumaður fyrst í Ísafjarðarsýslu, svo á Barðaströnd, dó 1591, átti Ragnheiði Eggertsdóttur lögmanns og riddara, Hannesarsonar, riddara og hirðstjóra, Eggertsonsonar riddara og lögmanns í Noregi, Nr. 252. Þeirra dóttir:

220. Sesselja, er átti Ísleifur í Saurbæ Eyólfsson, Nr. 138.

221 b) Steinunn, er Björn prestur Jónsson á Melstað hèlt við, Nr. 172.

222. 3) Solveig Magnúsdóttir, Nr. 210, er átti Sigurður lögmaður 1376, á Svalbarða, Guðmundarson lögmanns 1321, Sigurðarsonar. Þeirra dóttir:

223. Þórdýs, er átti Þorkell prestur Guðbjartsson í Laufási 1449, Ásgrímssonar. Þeirra börn:

224. a) Magnús á Skriðu átti Kristínu Eyólfsdóttur, Nr. 217.

225. b) Þorvaldur (Þorkelsson) átti Haldóru Narfadóttur, Erlendssonar, Nr. 281. Þeirra son:

226. Narfi á Geirrauðareyri, átti Þuríði laundóttur Björns riddara, Þorleifssonar, Nr. 323. Þeirra dóttir:

227. Helga, er Grímur átti Pálsson á Möðruvöllum, Nr. 234.

☞ *Hèr má hafa góðan athuga við, að blanda ekki saman systkynum, eður systkynabörnum.*

## Ellefti kynþáttur.

***Föðurætt Þuríðar Erlendsdóttur, Nr. 195, og Sigurðar, Nr. 67.***

228. Sveinn Þorsteinsson hèt göfugur mað-

ur, er lifði á dögum Hákonar konúngs og með honum 1301. Flateyar-Annáll getur hans 1303, 1306, 1310. Hans son:

229. Jón „lángur“ voldugur maður í Axarfirði og fèll á Grund í Eyafirði með Smið hirðstjóra 1362. Hans börn teljast hèr:

230) a) Finnbogi hinn gamli á Ási í Kelduhverfi, mikils metinn maður. Hans er getið fyrst 1406, en seinast 1430. Hans dætur:

a) Þórdýs gipt, Nr. 124.

231. b) Þórunn barnamóðir Jóns prests Pálssonar á Grenjaðarstað, Nr. 243. Þeirra börn:

232. a) Herra Brandur lögmaður norðan og vestan 1463 til 1478, sat að Hofi á Höfðaströnd. Hans son:

233. Páll á Möðruvöllum, dó 1495, mikill höfðíngi. Hans laungetinn son var:

234. Grímur á Möðruvöllum, sýslumaður í Eyafirði, framyfir 1575. Þeirra son:

235. Páll á Holtastöðum sýslumaður, dó 1551, átti Margrètu Erlendsdóttur, Nr. 250. Þeirra son:

236. Erlendur fyrst „rektor“ á Hólum, svo prestur á Breiðbólstað í Vesturhópi 1569, átti Björgu Kráksdóttur Hallvarðssonar, Nr. 194.

237. b) Herra Finnbogi lögmaður norðan og vestan 1489 til 1510, átti 1467 Málfríði Torfadóttur riddara, Nr. 66. Þeirra son:

238. Jón prestur á Múlastað 1491, svo prior á Möðruvöllum 1524. Hans son:

239. Torfi prestur að Saurbæ í Eyafirði, fram á daga Ólafs biskups Hjaltasonar. Hans dóttir:

240. Málfríður, er Björn prestur Gíslason í Saurbæ átti, Nr. 269. Þeirra dóttir:

241. Elín, er Pètur átti Magnússon í Vík, Nr. 187. Sjá Nr. 264.

## Tólfti kynþáttur.

*Móðurætt Erlendar prests Pálssonar, Nr. 236, og ýmsra annara.*

242. Páll Þorvarðsson hèt göfugur maður fyri norðan. Hans börn:

243. *a)* Jón prestur á Grenjaðarstað 1426, áður kirkjuprestur á Hólum og officialis Hólakirkju 1409 til 1458, dó 1471, átti Þórunni Finnbogadóttur, Nr. 231.

244. *b)* Íngibjörg Pálsdóttir kona Lopts ríka Guttormsonar, Nr. 178, þeirra börn voru þau:

245. 1) Þorvarður á Möðruvöllum, dó 1447, átti Margrèti Vigfúsdóttur Hólm, hirðstjóra, Nr. 302. Þeirra börn:

a) Guðríður, Nr. 283, og

246. b) Ragnhildur, er átti 1460 Bjarni Marteinsson á Ketilsstöðum austur í Mýrdal. Þeirra börn:
247. a) Erlendur sýslumaður í Múlasýslu 1490. Hans börn:
248. I) Þorvarður fyrri maður Kristínar Gottskálksdóttur biskups á Hólum, Nikulássonar. Þeirra dóttir:
249. Margrèt er átti Sigurður á Eyðum Finnbogason, Nr. 67.
250. II) Margrèt Erlendsdóttir, er Páll átti Grímsson, Nr. 235.
251. b) Ragnhildur Bjarnadóttir, er Björn átti sýslumaður í Ögri Guðnason í Ögri, Jónssonar, Nr. 73. Þeirra dóttir:
252. Guðrún kona Hannesar riddara og hirðstjóra 1517, Eggertssonar riddara 1488 og lögmanns í Noregi. Þeirra son:
253. Eggert riddari í Bæ á Rauðasandi hirðstjóri og riddari 1554, dó 1584, átti Sesselju Jónsdóttur frá Sæbóli á Íngjaldssandi. Þeirra dóttir:
254. Ragnheiður, dó 1642, 98 ára, átti 1570 Magnús sýslumann Jónsson, Nr. 219.
255. 2) Ólöf Loptsdóttir, Nr. 244, var kona Björns á Skarði riddara og hirðstjóra, Þorleifssonar, Nr. 321. Þeirra börn:
256. I) Þorleifur riddari og hirðstjóri dó 1484,

átti Íngveldi Helgadóttur lögmanns, Eyólfssonar, Nr. 469. Þeirra börn:

257. *a)* Þuríður, er átti Guðmundur Andrèsson, Nr. 49.

258. *b)* Helga, er átti Eyólfur ýngri mókollur í Haga á Barðaströnd, Gíslason, Filippussonar. Þeirra börn:

259. a) Kristín, er átti Gísli biskup Jónsson, Nr. 153, og

260. b) Þórdýs, er átti Haldór Ormsson í Saurbæ, Nr. 136. Launson Þorleifs riddara:

261. *c)* Einar hirðstjóri 1493 á Hofsstöðum, átti Katrínu Haldórsdóttur, Nr. 134.

262. II) Solveig Björnsdóttir, Nr. 255, var kona Páls á Skarði Jónssonar, bróður Guðna í Ögri, Nr. 73. Þeirra dóttir:

263. Guðrún, kona Vigfúsar lögmanns Erlendssonar, Nr. 284.

## Þrettándi kynþáttur.

*Föðurætt Björns prests í Saurbæ og Árna Gíslasona.*

264. Jón lángur áðurnefndur, Nr. 229. Hans annar son var:

265. Sveinn faðir:

266. Halls bónda á Vindheimum í Hörgárdal. Hans son:

267. Hákon á Vindheimum átti Íngunni Haldórsdóttur. Þeirra son:

268. Gísli bóndi á Hafgrímsstöðum, átti Íngibjörgu Grímsdóttur á Möðruvöllum og Helgu Narfadóttur, Nr. 234. Þeirra börn:

269. a) Björn í Saurbæ í Eyafirði 1582. Áður var hann kirkjuprestur á Hólum 1544 og officialis 1551, dó eptir 1590, átti Málfríði Torfadóttur, Nr. 240.

270. b) Árni klausturhaldari á Þíngeyrum, svo á Hlíðarenda sýslumaður í Rángárþingi, dó 1587, átti Guðrúnu Sæmundardóttdóttur frá Ási, Nr. 286. Þeirra dóttir:

271. Solveig, er átti Eyólfur Haldórsson, Nr. 137.

## Fjórtándi kynþáttur.

*Móðurætt Þorvarðar Þórólfssonar, Nr. 144, og Narfa Þorvaldssonar, Nr. 226, m. fl.*

272. Snorri Húnbogason var lögmaður 1156[1]. Hans son var:

273. Narfi faðir:

274. Skarðs-Snorra, er var prestur á dögum Sturlúnga[2]. Hans son:

275. Narfi faðir:

276. Þorláks lögmanns 1190, er bjó á Kol-

---

1) Landnáma segir svo á bls. 338: „1159 Snorri lögmaður Húnbogason 15 ár.“ 2) Sturlúnga getur hans víða.

beinsstöðum í Haukatúngum, og dó 1303. Hans son:

277. Herra Ketill lènsherra eður hirðstjóri 1321, dó 1340. Hans son:

278. Narfi faðir:

279. Erlendar. Allir þessir lángfeðgar bjuggu á Kolbeinsstöðum. Hans son var:

280. Narfi samastaðar átti Þuríði Jónsdóttur frá Ögri, Ásgeirssonar, Nr. 101. Þeirra börn voru:

281. a) Haldóra, er átti Þorvaldur Þorkelsson, Nr. 225.

282. b) Erlendur á Kolbeinsstöðum, átti Hallberu Sæmundsdóttur úr Fljótshlíð. Þeirra son:

283. Erlendur á Hlíðarenda sýslumaður í Rángárþíngi 1460, átti Guðríði Þorvarðsdóttur, Nr. 245. Þeirra börn:

284. 1) Vigfús á Hlíðarenda, var hirðstjóri 1509, svo lögmaður 1513, dó utanlands 1521, átti Guðrúnu Pálsdóttur, Jónssonar, Nr. 263. Þeirra dóttir:

285. Guðríður, er átti Sæmundur ríki undir Ási, Eyríksson, Sumarliðasonar. Þeirri dóttir:

286. Guðrún, er átti Árni Gíslason á Hlíðarenda, Nr. 270.

287. 2) Þorvarður lögmaður, Erlendsson, norðan og vestan 1499, deyði 1513, átti

Margrètu Jónsdóttur, systur Stefáns biskups í Skálholti. Þeirra börn:

288. *a)* Erlendur á Strönd í Selvogi lögmaður sunnan og austan 35 ár, til 1555, dó 1576. Hans laundóttir með Íngveldi Jónsdóttur var:

289. Margrèt, er Þórólfur átti Eyólfsson á Hjalla, Nr. 143.

290. b) Ragnheiður Þorvarðsdóttir kona Orms Einarssonar, Nr. 135.

## Fimtándi kynþáttur.

*Móðurætt systranna Ragnhildar og Guðríðar Þorvarðsdætra, Nr. 245—6.*

291. Sigfús[1] Loðmundarson prestur í Odda á Rángárvöllum, átti Þóreyu Eyólfsdóttur frá Möðruvöllum, Nr. 202. Þeirra son:

292. Sæmundur fróði[2] í Odda, fæddur 1046, dó 1133, átti Guðrúnu Kolbeinsdóttur. Þeirra son:

293. Loptur í Odda, dó 1175, átti Þóru[3] Magnúsdóttur berbeins Noregskonúngs 10 ár, Ólafssonar kyrra, Haraldssonar harðráða, Sigurðarsonar. Þeirra son:

294. Jón[4] í Odda. Hann er sá göfugasti

---

1) Sjá Landn. bls. 15, 47 og víðar. 2) Landn. bls. 15, 16, 384 og víðar. 3) Sjá Landn. bls. 278. 4) Sjá Landn. bls. 189.

maður og vinsælasti höfðíngi, sem verið hefir á Íslandi, dó 1197, átti Haldóru Skeggbrandsdóttur. Þeirra dóttir:

295. Solveig, er átti Guðmundur, á Þíngvöllum Oddsson. Þeirra son:

296. Þorlákur á Svínafelli átti Haldóru Ormsdóttur. Þeirra dóttir:

297. Þóra, er átti Klængur Teitsson, Þorvaldssonar í Hruna Gissurssonar í Haukadal. Þeirra dóttir:

298. Ásta, er átti Ívar Hólm hirðstjóri 1354. Hann var með Hákoni gamla Noregskonúngi. Þeirra son:

299. Vigfús Hólm, kom inn hirðstjóri frá Færeyum híngað 1390. Hans son:

300. Ívar Hólm faðir:

301. Vigfúsar Hólm, er kom hirðstjóri 1405 eptir nýa og stutta Annál. Hann átti Guðríði Íngimundardóttur, þá bæði 15 vetra. Þeirra dóttir var:

302. Margrèt, er dó 1486. Hennar fèkk 1434 Þorvarður Loptsson, Nr. 245.

## Sextándi kynþáttur.

*Móðurætt Björns riddara Þorleifssonar á Skarði.*

303. Úlfur óargi[1] ríkur höfðíngi á eynni Hrafnistu. Hans dóttir:

1) Sjá Landn. bls. 55.

304. Hallbera, er átti Bjálfi (Brunda-Bjálfi) [1] Ögmundsson, Hakasonar. Þeirra son var:

305. Kvöldúlfur, er átti Salbjörgu dóttur Kára í Berðlu [2]. Þeirra son:

306. Skalla-Grímur [3] bjó á Borg, landnámsmaður um allan Borgarfjörð og Mýrar til Hítarár, átti Beru Íngvarsdóttur frá Álptanesi á Mýrum. Þeirra son:

307. Egill [4] á Borg, átti Ásgerði Bjarnardóttur hersis, Brynjólfssonar á Örlandi. Þeirra dóttir:

308. Þorgerður, [5] er átti Ólafur Pá í Hjarðarholti, Höskuldsson, Dalakollssonar. Þeirra dóttir:

309. Þorbjörg digra, er átti Ásgeir í Vatnsfirði Knattarson, Þjóðrekssonar. Þeirra son:

310. Kjartan í Vatnsfirði, átti Guðrúnu Haldórsdóttur frá Helgafelli, Nr. 89. Þeirra son var:

311. Þorvaldur í Vatnsfirði, átti Þórdýsi Hámundsdóttur. Þeirra börn:

a) Íngiríður, Nr. 91, og

312. b) Þórður í Vatnsfirði, átti Sigríði Hafliðadóttur, Márssonar. Þeirra son:

313. Snorri í Vatnsfirði, átti Jórríði (Jóreiði)

---

1) Sjá Landn. bls. 55. 2) Landn. bls. 55. „dóttur Berðlu-Kára.“ 3) Landn. bls. 55—60. 4) Landn. bls. 76 í athugasemd. 5) Landn. bls. 114.

Oddleifsdóttur, Þórðarsonar krákunefs. Þeirra son:

314. Þorvaldur í Vatnsfirði átti Þórdýsi Snorradóttur lögmanns í Reykjaholti, Sturlusonar í Hvammi, Þórðarsonar. Nr. 16. Þeirra son:

315. Einar í Vatnsfirði fæddur 1227, sama ár og faðir hans dó. Hans dóttir:

316. Vilborg dó 1343; átti hana Eyríkur riddari í Vatnsfirði, Sveinbjarnarson, Sigmundssonar. Þeirra son var:

317. Einar í Vatnsfirði, dó 1383, átti Helgu á Grund í Eyafirði, sem lèt drepa Smið hirðstjóra og hans fylgjara 1362. Þeirra son var:

318. Björn riddari í Vatnsfirði Jórsalafari, dó 1415, átti Solveigu Þorsteinsdóttur lögmanns, Nr. 213. Þeirra dóttir:

319. Kristín í Vatnsfirði dó 1459. Hana átti Þorleifur ríki Árnason, Nr. 102. Þeirra börn:

320. 1) Solveig, er átti fyrr Orm Loptsson, Nr. 182. Síðar varð hún kona Sigmundar prests Steindórssonar í Miklabæ, Nr. 191.

321. 2) Björn á Skarði riddari og hirðstjóri 1457, dó 1467, átti Ólöfu Loptsdóttur, Nr. 255. Hans laundóttir:

322. a) Þóra, er átti Guðni Jónsson í Ögri, Nr. 73. og
323. b) Þuríður, er átti Narfi Þorvaldsson á Geirrauðareyri, er síðan er kölluð „Narfeyri“ á Skógarströnd, No. 226.

## Sautjándi kynþáttur.

*Föðurætt Einars Eyríkssonar, Nr. 317.*

324. Björn[1] Gautski Hrólfsson frá Ám (Ánit)[2]. Hans son:
325. Eyvindur austmann, átti Raförtu Kjarvalsdóttur, Nr. 196. Þeirra son:
326. Helgi magri landnámsmaður um allan Eyafjörð. Hans son:
327. Íngjaldur, er átti Salgerði. Þeirra dóttir:
328. Eya[3], er átti Knútur Þórólfsson. Þeirra dóttir:
329. Þóra, er átti Þorvaldur Þórðarson. Þeirra son:
330. Knútur á Mýrum faðir:
331. Þorgauts föður:
332. Steinúlfs, er átti Herdýsi. Þeirra dóttir:
333. Halla, er átti Þórður Oddleifsson. Þeirra dóttir:
334. Steinunn, er átti Sveinbjörn. Þeirra son:

---

1) Landn. bls. 203—5. 2) Landn. bls. 203, segir „Ám“ rèttara enn „Ánit.“ 3) Landn. bls. 136. „Knjúkur átti Eyju, dóttur Íngjalds Helgasonar magra.“

335. Rafn á Rafnseyri. Hans dóttir:
336. Herdýs, er átti Sigmundur. Þeirra son:
337. Sveinbjörn, dó 1290. Hans son:
338. Eyríkur í Vatnsfirði riddari 1316, dó 1342, átti Vilborgu Einarsdóttur úr Vatnsfirði, Nr. 316, og var Einar faðir Björns Jórsalafara sonur þeirra. (Nr. 317 og 318).

---

# ÆTTATALA
## ÞURÍÐAR PÁLSDOTTUR.

---

### Fyrsti kynþáttur.

339. Arnbjörn Salómonsson nefnist prestur í Gaulverjabæ um og eptir 1400. Hans son:
340. Gísli prestur í Gaulverjabæ eptir föður sinn, áður var hann heimilis prestur Ólafar á Skarði. Hans son var:
341. Guðmundur í Deildartúngu sýslumaður í Þverárþingi, sunnan Hvítár. Hans son:
342. Herra Þórður lögmaður sunnan og austan 1571 um 35 ár, dó 1609, átti Jórunni dóttur Þórðar prests Hítardal

Einarssonar hirðstjóra, Þorleifssonar. Þeirra dóttir:

343. Ragnhildur, er átti Vigfús á Kalastöðum við Hvalfjörð Jónsson, Pálssonar. Þeirra son:

344. Illhugi á Kalastöðum, er átti Sesselíu Árnadóttur frá Hlíðarenda, Gíslasonar, Nr. 458. Þeirra son:

345. Þórarinn á Hvítárvöllum lögrèttumaður átti 1642 Þorbjörgu Gísladóttur frá Staðarfelli, Jónssonar, Nr. 368. Þeirra son:

346. Þorsteinn prestur 15 ár, bæði á Miðdala og Borgarþingum[1], dó 1695, átti Guðrúnu dóttur Bjarna prests Hallssonar á Grund, Nr. 390. Þeirra son:

347. Þórður dó 1708, átti Þórunni dóttur Páls prests, Nr. 377. Þeirra son:

348. Páll, átti Guðrúnu Þorvaldsdóttur, Rafnssonar, Nr. 358. Þeirra son:

349. Jón í Háarifi átti Salbjörgu. Þeirra son:

350. Páll samastaðar, átti Helgu. Þeirra dóttir:

351. Þuríður, er átti Sveinn Sveinsson á Skarði, Nr. 32.

---

1) Ísl. Lærd. L. Fèl. R. 11. b. bls. 72 og 83.

## Annar kynþáttur.

*Móðuættr Jóns Pálssonar, Nr. 349.*

352 Illhugi svarti þjón Lopts ríka Guttormssonar. Hans son:

353. Sigvaldi, mesti hæðarmaður, kallaður lángalíf, bjó austur á Síðu, átti Þuríði Einarsdóttur, bróðurdóttur Bjarnar riddara. Þeirra son:

354. Einar átti Gunnhildi Jónsdóttur bónda. Þeirra son:

355. Jón prestur í Reykjaholti, prófastur[1] 23 ár frá Botnsá til Hítarár, dó 1592, 78 ára, átti Guðríði Sigurðardóttur, Þorbjörnssonar. Þeirra dóttir:

356. Guðrún, er átti Rafn prestur Þorvaldsson á Saurbæ við Hvalfjörð um 40 ár, dó 1623. Þeirra son:

357. Þorvaldur, átti Önnu Sigurðardóttur prests, Einarssonar, Nr. 364. Þeirra dóttir:

358. Guðrún, er átti Páll Þórðarson, Nr. 348.

## Þriðji kynþáttur.

*Móðurætt Guðrúnar Þorvaldsdóttur, Nr. 358.*

359. Eggert Eggertsson lögmaður í Víkinni í Noregi, svo riddari 1488. Hans son:

---

1) Sjá Ísl. Lærð. L. Fèl. R. 11. b. bls. 68 og 69.

360. Hannes riddari og hirðstjóri um 1517, átti Guðrúnu dóttur Björns Guðnasonar, Nr. 433. Þeirra börn:

361. a) Eggert riddari og hirðstjóri, 1515—24, í Bæ á Rauðasandi; svo lögmaður sunnan og austan 1554, en norðan og vestan 1556—69, dó 1584, átti Sesselju Jónsdóttur frá Sæbóli, á Íngjaldssandi. Þeirra dóttir:

362. Ragnheiður, dó 1642, 88 ára. Hennar fèkk, 1570, Magnús sýslumaður Jónsson, Nr. 445. Þeirra dóttir:

363. Sesselja. Hennar laundóttir, með Sigurði Einarssyni þíngapresti á Rauðasandi, var:

364. Anna, er átti Þorvaldur prestur frá Saurbæ, Nr. 357.

365. b) Björn í Saurbæ, dó um 1556, átti 1545 Þórunni dóttur Daða Guðmundarsonar í Snóksdal og Guðrúnar Einarsdóttur frá Staðastað. Þeirra son:

366. Hannes í Snóksdal, dó 1627, 80 ára, átti Guðrúnu Ólafsdóttur, Jónssonar, Nr. 478. Þeirra dóttir:

367. Þórunn, dó 1646. Þá hún var 19 ára, fèkk hennar Gísli lögrèttumaður, á Hrafnabjörgum í Harðardal, Gíslason, Nr. 456. Þeirra dóttir:

368. Þorbjörg, er 1647 átti Þórarinn á Hvítárvöllum, Illhugason, Vigfússonar, Nr. 345.

## Fjórði kynþáttur.

*Móðurætt Páls Þórðarsonar, Nr. 348.*

369. Herra Þorleifur riddari Björnsson, áðurnefndur, Nr. 469. Hans börn:
370. a) Helga, er átti Eyólfur ýngri mókollur Gislason, Nr. 380.
371. b) Þrúður, er átti Guðmundur Andrèsarson, Nr. 49. Þeirra son:
372. Þorleifur í Þykkvaskógi, deyði 1536, átti Íngibjörgu Jónsdóttur, Erlíngssonar. Þeirra son:
373. Guðmundur í Skógi, átti Sigríði dóttur Ólafs prests Magnússonar, á Stað á Reykjanesi, er þar dó 1565. Þeirra son:
374. Björn í Skógi átti Margrètu Bjarnadóttur, Nr. 383. Þeirra dóttir:
375. Þóra dó 1690, átti Gunnar prest á Gilsbakka 38 ár, sem dó 1661, Pálsson frá Hólum í Garði, Jónssonar. Þeirra son:
376. Páll prestur á Gilsbakka 39 ár, vígðist 19 vetra, dó 1700, 63 ára, átti Helgu Eyríksdóttur, Nr. 405. Þeirra dóttir:
377. Þórunn, er átti Þórður Þorsteinsson, Nr. 347.

## Fimti kynþáttur.

*Móðurætt þóru Bjarnardóttur, Nr. 375.*

378. Eyólfur mókollur ríkismaður í Haga á Barðaströnd. Hans dóttir:
379. Íngibjörg, er átti Gísli Filippusson í Haga. Þeirra son var:
380. Eyólfur ýngri mókollur í Haga, átti Helgu Þorleifsdóttur riddara, Nr. 370. Þeirra dóttir:
381. Ingveldur átti Þorlák Egilsson í Hundadal í Miðdölum. Þeirra dóttir:
382. Gyðríður þriðja kona Bjarna Sumarliðasonar á Fellsenda í Miðdölum. Þeirra dóttir:
383. Margrèt, er átti Björn Guðmundsson í Skógi, Nr. 374.

## Sjötti kynþáttur.

*Móðurætt þórðar þorsteinssonar á Borg, Nr. 347.*

384. Bjarni Marteinsson á Ketilsstöðum austur, átti 1460 Ragnhildi Þorvarðsdóttur frá Möðruvöllum, Nr. 464. Þeirra börn:
385. 1) Erlendur sýslumaður í Múlasýslu 1490. Hans dóttir:
386. Margrèt, er átti Páll Grímsson, Pálssonar, Nr. 454. Þeirra son:
387. Bjarni á Skriðu í Hörgárdal, átti Haldóru Bjarnardóttur prests frá Melstað,

Jónssonar biskups Arasonar, Nr. 412. Þeirra son:

388. Hallur á Möðrufelli lögrèttumaður og lögsagnari í Vöðlusýslu 1639, átti Herdýsi Jónsdóttur, Arnfinnssonar. Þeirra son:

389. Bjarni prestur á Grund í Eyafirði 35 ár, dó 1696, átti Sigríði Ólafsdóttur frá Núpufelli, Nr. 398. Þeirra dóttir var:

390. Guðrún, er átti Þorsteinn prestur Þórarinsson á Borg, Nr. 346.

391. 2) Ragnhildur, er átti Björn Guðnason, Nr. 432.

## Sjöundi kynþáttur.

*Móðurætt Guðrúnar Bjarnadóttur.*

392. Torfi Arason riddari og hirðstjóri 1448. Hans börn voru:

393. a) Málfríður, er átti 1467 Finnbogi lögmaður Jónsson, Nr. 230. Hans son:

394. Jón prestur í Múla norður 1491, svo príor á Möðruvöllum 1524. Hans son:

395. Sigurður klausturhaldari á Möðruvöllum, átti Þorgerði Þorleifsdóttur, Grímssonar, Nr. 453. Þeirra son:

396. Jón prestur í Laufási 1554, átti Haldóru Þorleifsdóttur sýslumanns Bessasonar. Þeirra son:

397. Ólafur á Núpufelli, átti Haldóru Árna-

dóttur, Magnússonar, Nr. 420. Þeirra dóttir:

398. Sigríður, er átti Bjarni prestur Hallsson á Grund, Nr. 389.

399. b) Guðrún, er Einar ábóti hèlt við á Múnkaþverá, Ísleifsson beltislausa. Þeirra son:

400. Finnbogi ábóti á Múnkaþverá, vellærður maður dó 1525, hèlt við Íngveldi Sigurðardóttur. Þeirra dóttir:

401. Guðrún, er átti Sigurður prestur seinast í Grímsey, Þorsteinsson Nikulássonar. Þeirra son:

402. Einar prestur í Eydölum 69 ár, fæddur 1539, dó 1626, 87 ára, átti Margrètu Helgadóttur, Eyólfssonar. Þeirra son:

403. Herra Oddur biskup í Skálaholti 41 ár, dó 71 árs, átti Helgu Jónsdóttur frá Grund, Nr. 411. Þeirra son var:

404. Eyríkur, átti Þorbjörgu Bjarnadóttur, Oddssonar, Nr. 439. Þeirra dóttir:

405. Helga, er átti Páll prestur Gunnarsson á Gilsbakka, Nr. 376.

## Áttundi kynþáttur.

*Af Jóni biskupi Arasyni.*

406. Sigurður Jónsson hèt príor á Möðruvöllum 1440. Hans son var:

407. Ari á Grítu örfátækur maður, átti Elínu Magnúsdóttur. Þeirra son var:

408. Herra Jón fæddur 1484, prestur á Hrafnagili 20 ár, svo biskup á Hólum 1524, dó 1550, átti Helgu Sigurðardóttur, Sveinbjörnssonar officialis, Þórðarsonar. Þeirra börn:

409. 1) Björn prestur á Melstað dó 1550, átti Steinunni Jónsdóttur frá Svalbarða, Nr. 446. Þeirra börn:

410. a) Jón sýslumaður á Grund, dó 1613, átti Guðrúnu Árnadóttur, Gíslasonar, Nr. 459. Þeirra dóttir:

411. Helga kona herra Odds Einarssonar, Nr. 403, dó 1662, 98 ára.

412. b) Haldóra, er átti Bjarni Pálsson, Nr. 387.

413. 2) Magnús prestur Jónsson á Grenjaðarstað 10 ár, dó 1534, átti Kristínu Vigfúsdóttur lögmanns Erlendssonar, Nr. 428. Þeirra dóttir:

414. Guðrún, er átti Gunnar Gíslason á Víðivöllum, Nr. 461. Þeirra son:

415. Björn á Bustarfelli sýslumaður í Múlasýslu, átti Ragnhildi Þórðardóttur, Björnssonar á Bustarfelli, Jónssonar. Þeirra dóttir:

416. Þórunn, er átti Bjarni sýslumaður í Múlasýslu 1611, Oddson, Nr. 438.

417. 3) Sigurður prestur Jónsson á Grenjaðarstað 61 ár, dó 1595. Hans dóttir:

418. Þuríður, er átti Magnús í Stóradal Árnason, Pètursssonar, Nr. 443. Þeirra son:
419. Árni sýslumaður á Grítubakka, átti Sigríði Árnadóttur frá Hlíðarenda, Nr. 460. Þeirra dóttir:
420. Haldóra, er átti Ólafur á Núpufelli Jónsson, Nr. 397.

## Níundi kynþáttur.

*Móðurætt Helgu Eyríksdóttur, Nr. 405.*

421. Hafliði Steinsson hèt prestur á Breiðabólstað í Vesturhópi 1309. Hans son:
422. Einar prestur samastaðar officialis 1340, dó 1393, 89 ára. Hans son:
423. Árni á Auðbrekku, átti Guðnýu Hákonardóttur, Gissurssonar galla í Víðidalstúngu, Björnssonar. Þeirra son:
424. Ásgeir í Ögri við Ísafjörð, átti Guðfinnu Þorgeirsdóttur, Ólafssonar, Loptssonar ríka. Þeirra son:
425. Jón sýslumaður í Ögri, átti Kristínu Guðnadóttur, Oddssonar lögmanns, Þórðarsonar, frá Núpi í Dýrafirði, Sigmundarsonar. Þeirra börn:
426. 1) Páll á Skarði, dó 1498, átti Solveigu Bjarnardóttur riddara, Þorleifssonar, Nr. 468. Þeirra dóttir:
427. Guðrún kona Vigfúsar lögmanns Erlendssonar, Nr. 466. Þeirra börn:
428. a) Kristín kona Magnúsar prests, Nr. 413.

429. b) Guðriður kona Sæmundar í Ási Eyríkssonar, Sumarliðasonar. Þeirra dóttir:

430. Guðrún, er átti Árni sýslumaður á Hlíðarenda Gíslason, Nr. 457.

431. 2) Guðni Jónsson sýslumaður í Ögri, dó 1487, átti Þóru laundóttur Bjarnar riddara, Nr. 322. Þeirra börn:

432. a) Björn sýslumaður í Ögri, dó 1517, átti Ragnhildi Bjarnadóttur, Marteinssonar, Nr. 391. Þeirra dóttir:

433. Guðrún dó 1567, 78 ára, kona Hannesar riddara og hirðstjóra, Eggertssonar, Nr. 360.

434. b) Helga, er Torfi átti ríki í Klofa á Landi, Jónsson, Ólafssonar, Loptssonar, Nr. 24. Þeirra dóttir:

435. Sesselja kona Þorsteins Finnbogasonar lögmanns, Jónssonar og Málfriðar, Nr. 393. Þeirra son:

436. Vigfús sýslumaður í Þingeyarsýslu 1563, átti Þorbjörgu Magnúsdóttur á Eyðum. Þeirra dóttir:

437. Íngibjörg, er átti Oddur prestur Þorkelsson á Hofi 36 ár, dó 1634, Hallgrímssonar. Þeirra son:

438. Bjarni á Bustarfelli sýslumaður í Múlasýslu 1611, dó 1663, átti Þórunni Björnsdóttur, Nr. 416. Þeirra dóttir:

439. Þorbjörg, er átti Eyríkur Oddsson biskups, Einarssonar, Nr. 404.

440. c) Steinunn Guðnadóttir, Nr. 431, er átti Loptur Ormsson, Loptssonar ríka Guttormssonar. Þeirra son:

441. Pètur átti Sigríði Þorsteinsdóttur, Helgasonar lögmanns 1452, Eyólfssonar. Þeirra börn voru:

442. a) Árni dalaskeggur, átti Guðrúnu Bessadóttur sýslumanns í Húngaþíngi, Einarsonar. Þeirra son:

443. Magnús í Stóradal í Eyafirði, átti Þuríði Sigurðardóttur frá Grenjaðarstað, Nr. 418.

444. b) Ragnheiður er átti Jón á Svalbarða Magnússon á Skriðu, Þorkelssonar. Þeirra börn.

445. 1) Magnús sýslumaður í Bæ á Rauðasandi, dó 1591, átti 1570 Ragnheiði Eggertsdóttur, Nr. 362.

446. 2) Steinunn er fyrst var kona Björns prests Jónssonar á Melstað, Nr. 409; svo Ólafs Jónssonar, Nr. 477.

## Tíundi kynþáttur.

*Til ýmsra ættkvísla að framan.*

447. Páll Þorvarðsson ríkur höfðíngi, hirðstjóra umboðsmaður fyrir norðan. Hans börn:

448. 1) Jón prestur á Grenjaðarstað officialis, dó 1471, átti Þórunni Finnbogadóttur, Jónssonar. Þeirra börn:

449. a) Brandur á Hofi lögmaður norðan og vestan 1463, 15 ár. Hans son:

450. Páll á Möðruvöllum dó 1495, mikill höfðíngi. Hans son var:

451. Grímur samastaðar, sýslumaður í Þíngeyarsýslu, átti Helgu Narfadóttur, Nr. 227. Þeirra börn:

452. *a)* Þorleifur á Möðruvöllum dó 1560, átti Solveigu Hallsdóttur. Þeirra dóttir:

453. Þorgerður, er átti Sigurður Jónsson, Finnbogasonar, Nr. 395.

454. *b)* Páll sýslumaður á Holtastöðum, dó 1551, átti Margrètu Erlendsdóttur, Nr. 386.

455. *c)* Íngibjörg, er átti Gísli Hákonarson á Hafgrímsstöðum, Hallssonar. Þeirra börn:

456. †) Björn prestur faðir Gísla.

457. †) Árni á Hlíðarenda, dó 1587, átti Guðrúnu Sæmundsdóttur ríka, Nr. 430. Þeirra börn:

458. A) Sesselja, er átti Illhugi Vigfússon, Nr. 344.

459. B) Guðrún, er átti Jón sýslumaður Bjarnarson, Nr. 410.

460. C) Sigríður, er átti Árni sýslumaður Magnússon, Nr. 419.

461. †) Gunnar á Víðivöllum, átti Guðrúnu Magnúsdóttur prests, Nr. 414.
462. 2) Íngibjörg Pálsdóttir, Nr. 447, kona Lopts ríka Guttormssonar á Möðruvöllum, Nr. 178. Þeirra börn:
463. I) Þorvarður á Möðruvöllum, dó 1447, átti Margrètu dóttur Vigfúsar Ívarssonar Hólm hirðstjóra 1405. Þeirra börn voru:
464. a) Ragnhildur, er átti Bjarni Marteinsson, Nr. 384.
465. b) Guðríður, er átti 1460 Erlendur sýslumaður Erlendsson á Hlíðarenda. Þeirra son var:
466. Herra Vigfús á Hlíðarenda hirðstjóri 1507, svo lögmaður 1513, dó 1521, átti Guðrúnu Pálsdóttur, Nr. 427.
467. II) Ólöf dó 1434, kona Bjarnar riddara á Skarði Þorleifssonar í Vatnsfirði, Árnasonar. Þeirra börn:
468. a) Solveig, er átti Páll Jónsson á Skarði, Nr. 426.
469. b) Herra Þorleifur riddari og hirðstjóri, átti Íngveldi Helgadóttur lögmanns 1452, Eyólfssonar, Nr. 256. Móðir Íngveldar var Kristín Þorsteinsdóttir lögmanns, sem var kona Torfa riddara, Nr. 65 og 392. Þeirra dóttir:
470. Helga, er átti Eyólfur Gíslason í Haga, Nr. 380.

## Ellefti kynþáttur.

*Móðurætt Þórunnar Hannesdóttur, Nr. 367.*

471. Gottskálk (Kenıksson) hèt ríkur aðalsmaður í Noregi. Hans son:
472. Benedikt faðir:
473. Rögvaldar föður:
474. Nikulásar föður:
475. Herra Gottskálks biskups á Hólum 1500 um 20 ár. Hans barnamóðir var Valgerður Jónsdóttir frá Mannskaðahóli. Þeirra dóttir:
476. Kristín, er átti 1516 Jón Einarsson sýslumaður á Geitaskarði í Húnavatnssýslu. Þeirra son var:
477. Ólafur á Geitaskarði, seinni maður Steinunnar Jónsdóttur frá Svalbarða, Nr. 446. Þeirra dóttir:
478. Guðrún dó 1650, hana átti Hannes Björnsson í Snóksdal, Nr. 366.



## Til lesarans.

Um útgáfu ættatölu þessarar þarf eg eigi að vera margorður. Eg hef haft á því allan vilja að hún yrði bærileg að því leyti, sem eg mátti að gjöra, en samt geing eg að því vísu að í mörgu er henni áfátt, og kemur það af því að bæði skorti mig tíma og kunnáttu til að leysa hana vel af hendi. Eg hef eingu breytt frá því, sem það var í handritinu, nema orðaskipun og orðavali, þar sem mèr þókti það óglöggt eða óskipulegt. Athugagreinunum hef eg bætt við eptir bón eigandans.

Höfundur ættatölunnar hefir eigi annan formála, en þann, er hann segir hvað merkin eigi að þýða, t. a. m. a, b, c, merkja samborin systkyn, og sèst það alt bezt við lestur ættatölunnar sjálfrar.

Skrifað í Maímánuði 1848.

*M. Grímsson.*

Jón Borgfirðingur.

